# LÖG

HINS

# ÍSLENZKA BIBLÍUFJELAGS,

SAMÞYKT Á FJELAGSFUNDI

9. D. JÚLÍ 1855.



---

REYKJAVÍK 1855.

Prentað á kostnað fjelagsins, í prentsmiðju Íslands,

hjá E. Þórðarsyni.

1. gr.

Fjelag þetta, sem stofnsett er árið 1815, skal eins hjer eptir, sem hingað til, nefnast: Hið íslenzka Biblíufjelag.

2. gr.

Fjelagsins tilgangur skal vera: að bera umhyggju fyrir því, að heilög ritning, (bæði hið gamla og nýja testamenti) verði prentuð svo opt á íslenzkri tungu, að aldrei verði hennar skortur meðal almennings á Íslandi. Skal það því annast um, að strax sem ein útgáfa ritningarinnar má heita útgengin, [en það er, þegar ei eru eptir óseldar meir en 100 bækur,] verði ritningin upplögð að nýju, að fjelagsins ráðstöfun, á svo vandaðan hátt, að meiningu, orðfæri, stíl, pappír, prentun og öðru, sem bezt eru föng á, til að sendast út til allra landsins hjeraða til útsölu, með svo

lágu verði, sem unnt er, að ásigkomulagi hverrar tíðar.

3. gr.

Fjelagið telur fyrst um sinn einungis *reglu-meðlimi*, en geymir sjer rjett til, síðar meir að kjósa sèr þá að *heiðurs-meðlimum*, er það finnur þess verðuga.

4. gr.

Allir prófastar landsins eru sjálfkosnir, sem reglu-meðlimir fèlagsins; allir aðrir, andlegrar eða veraldlegrar stjettar menn, er styðja vilja að fjelagsins tilgangi, og gjörast þess meðlimir, beri það upp við forseta fjelagsins, eða bera láti, svo hann aptur geti, á fundi þeim, sem næst þar á eptir verður haldinn í fjelaginu, borið það undir fjelagið.

5. gr.

Sjerhver fjelagslimur hefur jafnan atkvæðisrjett á fundum fèlagsins, um þau málefni, er þar verða upp borin, og getur gjört

uppástungu um það, sem honum sýnist umvarðandi fyrir tilgang fjelagsins, hvort honum heldur sýnist á fundinum sjálfum, eða við fjelagsins forseta, og þá skriflega.

6. gr.

Arstillög af fjelagsmönnum eru ekki áskilin, en fjelagið treystir því, að þeir muni styrkja það með fjegjöfum, þegar á þarf að halda.

7. gr.

Stjórnendur fjelagsins eru 3: *forseti skrifari* og *fjárhyrðir*. Biskup landsins er ætíð sjálfkjörinn forseti þess, en hinir 2 kjósist ætíð þriðja hvert ár meðal reglumeðlima í Reykjavík, hvar stjórn fjelagsins ætíð hafi sitt aðsetur, og má þá sömu aptur kjósa, eptir tveggja ára þjónustu, ef svo líkar, og þeir ei undan skorast.

8. gr.

Eins og stiptprófastur landsins ætíð er sjálfkjörinn varaforseti fjelagsins, svo getur

það einnig, ef því svo líkar, kosið varaskrifara og varafjárhyrði meðal reglumeðlima sinna í Reykjavík, eða þá svo nærri henni, sem unnt er, og það á sama hátt og á sama tíma, sem í undangangandi grein og 18 gr. er sagt um kosningu skrifara og fjárhyrðis.

9. gr.

Fjelagið hefur sjer ætíð fulltrúa eður umboðsmenn í hèruðum landsins, og eru prófastarnir til þess sjálfkjörnir, hver fyrir sýslu sína.

10. gr.

Forseti ræður því, hve opt, og hvenær aukafjelagsfundir eru haldnir (sjá 17. gr.), og fer það eptir því, hvað fyrir hendi er í hvert skipti til að ráðgast um við fjelagið. Hann boðar fjelagsmönnum fyrirfram stað og stund, hvar og hvenær mótið á að vera, og hvað þar eigi að verða umtalsefnið, að svo miklu leyti honum er það kunnugt (5. gr.) Hann stjórnar öllum fjelagsins ráðslögunum á

fjelagsfundum; hann gefur, ásamt með fjelagsins skrifara fjárhyrðinum hinar nauðsynlegu inn- og útgjalda skipanir, svo hann þarmeð sannað fái reikníngsskap sinn. Hann gengst fyrir um endurbót á þýðingu ritningarinnar, svo hún náð fái sem mestri fullkomnun, og í einu orði: hann vakir yfir öllu því, sem eflt getur heill, heiður og augnamið fjelagsins.

11. gr.

Skrifari fjelagsins ritar það, sem forseti honum umbýður, sjer í lagi það, sem framfer á fjelagsfundum, í fjelagsins samkomubók. Hann ritar í dagbók fjelagsins innihald sjerhvers brjefs, er fjelaginu til handa kemur, eins og líka það, hver úrlausn er felld þar á af fjelaginu. Í brjefabók fjelagsins ritar hann, að orðfullu, sjerhvert það brjef er frá fjelaginu er ritað til annara. Við sjerhver árslok semur hann glöggva nafnaskrá allra meðlima fjelagsins. Hann undirskrifar með forsetanum sjerhvert fjelagsins brèf, eins og líka sjer-

hverja inn-og útgjalda skipan til fjárhyrðis, og er forsetanum liðsinnandi í öllu því, er efla má og styrkja fjelagsins tilgang og heillir, og að lyktum geymir hann vel og vandlega öll þau skjöl og brèf, er fjelaginu viðkoma, og sem eru ekki sjerílagi fjárhyrðis sýslaninni viðvíkjandi. (sjá 14. gr.)

12. gr.

Fjárhyrðir annist vandlega um fjárstofn fjelagsins. Hann ritar sjerhver inn-og útgjöld fjelagsins jafnóðum, og þau að hendi bera, með rjettri dagsetningu og upphæð í inn- og útgjaldabók fjelagsins og gefur gjaldendum um það viðurkenningu. Hann gjörir árlegan reikningsskap fyrir meðferð á fjelagsins fje, svo greynilega sem unnt er, og sannar hverja grein reikningsskapar síns, er sönnunar þarf, með skilríkum þeim, er þar til heyra. Þessi reikningskapur á að vera kominn forsetanum til handa fyrir aðalfund fjelagsins, er getið er um í 17. gr., og skal hann einnig, við reikn-

ingskapar árslokin bókaður vera í inn-og útgjaldabók fjelagsins, og þar undirskrifaður af fjárhyrði. Í sömu bók skal þá einnin vera bókuð nákvæm uppteiknun allra þeirra skuldabrjefa, sem tilheyra fastastofni fjelagsins, með tilgreyndu nafni, númeri og dagsetningu hvers skuldabrjefs, og upphæð bæði innstæða og vaxta.

13. gr.

Reiknings-ár fjelagsins byrjar 1. júlí árlega, og endar 30. júní næst á eptir.

14. gr.

Fjárhyrðir er í 7. grein talinn einn af stjórnendum fjelagsins, ásamt með forseta og skrifara, en þessir allir eru fyrir einn, og einn fyrir alla, fjelaginu ansvarlegir fyrir fje því, er fjelagið á í fjárhyrðis höndum, og má því forseti og skrifari, svo opt sem þeim sýnist, skoða hjá fjárhyrði bæði inn- og útgjalda

bók fjelagsins, og fje það, sem eptir henni á að vera hjá fjárhyrði á reiðum höndum. Forsómi þeir þetta, er það þeirra ábyrgð.

15. gr.

Það er mælt í 9. gr., að prófastar landsins sjeu sjálfkjörnir fulltrúar og umboðsmenn fjelagsins í hjeruðunum. Það er því ætlazt til af þeim, að þeir beiðist gjafa til fjelagsins, og veiti þeim móttöku; að þeir annist um óhulta geymslu þess af biblíunni, sem hverjum þeirra mætti verða sent að stjórnendanna ráðstöfun til útsölu, selji það með ákveðnu verði þeim, er girnast að kaupa, og standi fjelagsfjárhyrzlunni skil á andvirðinu. Líka væntir fjelagið þess af þeim, að þeir, hver í sínum verkahríng, annist um, að sem flestir liðsinni fjelagsins tilgángi með gjöfum og tillögum, og í einu sem öllu styðji í hjeraði sínu hag fjelagsins.

16. gr.

Einginn af embættismönnum eða fulltrúum fjelagsins má að svo stöddu vænta neinna launa af sjóði fjelagsins fyrir störf þau, er lög þessi leggja þeim á herðar, en goldið skal af fjelagssjóði bæði innkaup embættisbóka, og skriffaung þau, er til brjefaskripta þarf, þegar þess er sanngjarnlega krafizt. Burðar-peníngar fyrir brjef og penínga til fjelagsins borgist einnig af fjelagssjóði, eins og líka hver þau störf í fjelags þarfir, sem meira er í varið.

17. gr.

Einn er fjelagsfundur lögskipaður, og skal hann haldinn vera næsta rúmhelgan dag fyrir Synódus, sem nú er haldin 10. júlí árlega. Aðra eða aukafundi, kallar forseti saman, eptir því sem stjórn og störfum fjelagsins hagar.

18. gr.

Einungis á aðalfundi fjelagsins skal skrifari og fjárhyrðir vera kjörinn, það ár, sem kosníng þeirra eptir 7. gr. að ber. Einungis á þeim fundi má breytingu gjöra á lögum fjelagsins; þá skal einnig verða framlagður reikningskapur fjárhyrðis, og 2 menn valdir til að gagnskoða þennan reikningskap, og gjöra þar við þær athugasemdir, sem færi er á, en forseta og skrifara má ei kjósa til þessa starfa. Nýja fjelagslimi má eins kjósa á aukafundum.

19. gr.

Fjárhyrði skal af forseta gefið færi á, að svara þeim athugasemdum, sem gjörðar kynnu að verða við reikningskap hans, en forseti og skrifari felli lok á það, sem á milli ber, ef nokkuð er, en þó má fjárhyrðir skýrskota úrskurði þeirra um þetta til fje-

lagsins ályktunar á næsta fjelagsfundi, ef honum svo sýnist.

20. gr.

Á fjelagsfundum skulu atkvæðin gefin á skrifuðum seðlum, þó má forseti velja aðra aðferð til atkvæðagreiðslu, þegar svo stendur á.

21. gr.

Fjelagsmót eru ei lögmæt með færri fjelagsmönnum en 7, að stjórnendum fjelagsins meðtöldum. Sá, sem ekki sjálfur mætir á fjelagsfundi, má ekki gefa öðrum atkvæði sitt til meðferðar.

22. gr.

Þegar lög þessi eru samþykkt af öllum fjelagslimum, skulu þau verða prentuð á kostn-

að fjelagsins, og gefins úthlutað til fjelagsmanna.

